# ÍSLENDINGADAGURINN



1937

FERTUGASTA OG ÁTTUNDA ÞJÓÐHÁTÍÐ
VESTUR-ÍSLENDINGA




Forstöðunefnd Íslendingadagsins 1937, tekur höndum saman við alla Íslendinga búsetta í Manitobafylki um það, að árna Hans Hátign Georgi konungi hinum sjötta og Hennar Hátign Elízabetu drotningu langs og farsæls stjórnarferils.

**Guð blessi konungshjónin!**

# Fjallkonan



*FRÚ LILLIAN MURDOCH*
(Lilja Grímsdóttir Eyman)

—Photo by Gauvin-Gentzel, Winnipeg.

# Íslendingadagurinn

*FERTUGASTA OG ÁTTUNDA ÞJÓÐHÁTÍÐ*
*VESTUR-ÍSLENDINGA*

---

*Forstöðunefndin:*

Friðrik Sveinsson, forseti
Stefán Eymundsson, vara-forseti
Davíð Björnsson, ritari
Joe Sigurðsson, vara-ritari
Geir Thorgeirsson, gjaldkeri
Ásbjörn Eggertsson, vara-gjaldkeri, eignav
Carl Thorlaksson
J. J. Samson
Eiríkur Ísfeld
Th. Thordarson, Gimli
Guðm. Fjeldsted, Gimli
Th. S. Thorsteinsson, Selkirk

---

*HALDINN Í GIMLI PARK*
*MÁNUDAGINN 2. ÁGÚST 1937*

# Íslendingadagurinn

Þetta ár verður með svipuðu sniði og síðastliðið ár. Sérstakur pallur með sætum fyrir gullafmælis-börnin verið bygður, sem búist er við að fjölmenni á daginn.

Fyrir íþróttir verða gefin peningaverðlaun og medalíur.

Fjallkona dagsins, er eins og að undanförnu, ein hinna glæsilegu og vinsælu íslenzkra kvenna — frú Lillian Murdoch í Selkirk, er hefir góðfúslega tekið að séra að koma fram sem ímynd vors ástkæra fósturlands og bera börnum þess í fjarlægðinni kveðju og heillaóskir.

Á fyrstu síðu þessa rits eru prentuð nöfn allra þeirra nefndarmanna er kosnir voru á almennum fundi í Winnipeg til að vera forstöðunefnd þessarar hátíðar. Auk þeirra voru kosnir á Gimli í nefnd: Hr. C. P. Paulson, hr. W. J. Árnason, hr. G. B. Magnússon, hr. Hannes Kristjánsson, hr. Thorbjörn Thorsteinsson og hr. C. Jóhannsson, til samvinnu við Winnipegnefndina.

## I. ÞÁTTUR

*Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1937*

Formaður íþróttanefndar: Eiríkur Ísfeld

Íþróttir aðeins fyrir Íslendinga (að undanteknum tveimur).

Hver íþrótt því aðeins þreytt að fjórir eða fleiri keppinautar séu.

*Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1937*

1.—Börn upp að 6 ára aldri—25 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .35 |
| 2. Verðlaun | .25 |
| 3. Verðlaun | .15 |

2.—Stúlkubörn 6 til 8 ára—40 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .50 |
| 2. Verðlaun | .35 |
| 3. Verðlaun | .25 |

## *Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1937*

3.—Drengir 6 til 8 ára—40 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .50 |
| 2. Verðlaun | .35 |
| 3. Verðlaun | .25 |

4.—Stúlkubörn 8 til 10 ára—75 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .50 |
| 2. Verðlaun | .35 |
| 3. Verðlaun | .25 |

*Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1937*

5.—Drengir 8 til 10 ára—75 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .50 |
| 2. Verðlaun | .35 |
| 3. Verðlaun | .25 |

6.—Stúlkubörn 10 til 12 ára—100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .75 |
| 2. Verðlaun | .50 |
| 3. Verðlaun | .35 |

*Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1937*

7.—Drengir 10 til 12 ára—100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .75 |
| 2. Verðlaun | .50 |
| 3. Verðlaun | .35 |

8.—Stúlkubörn 12 til 14 ára—100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | 1.00 |
| 2. Verðlaun | .75 |
| 3. Verðlaun | .50 |

*Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1937*

9.—Drengir 12 til 14 ára—100 yards

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Verðlaun | 1.00 |
| 2. | Verðlaun | .75 |
| 3. | Verðlaun | .50 |

10.—Stúlkur 14 til 16 ára—100 yards

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Verðlaun | 1.00 |
| 2. | Verðlaun | .75 |
| 3. | Verðlaun | .50 |

*Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1937*

11.—Drengir 14 til 16 ára—100 yards

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Verðlaun | 1.00 |
| 2. | Verðlaun | .75 |
| 3. | Verðlaun | .50 |

12.—Ógiftar stúlkur—100 yards

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Verðlaun | 1.50 |
| 2. | Verðlaun | 1.25 |
| 3. | Verðlaun | 1.00 |

*Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1937*

13.—Giftar konur—100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | 1.50 |
| 2. Verðlaun | 1.25 |
| 3. Verðlaun | 1.00 |

14.—Giftir menn—100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | 1.50 |
| 2. Verðlaun | 1.25 |
| 3. Verðlaun | 1.00 |

# II. ÞÁTTUR

Byrjar kl. 11.30 f. h.

Verðlaunakepnin um silfurbikarinn, glímubeltið og skjöldinn byrjar kl. 11.30. Silfurbikarinn gefinn þeim, til eins árs, er flesta vinninga fær. Beltið þeim, er flesta vinninga fær í íslenzkri glímu. Skjöldurinn þeim íþróttaflokki, til eins árs, er flesta vinninga fær.

Hver íþrótt því aðeins þreytt, að fjórir eða fleiri keppinautar gefi sig fram.

Mörkum fyrir vinninga skal skift: 5 mörk fyrir fyrsta vinning; 3 mörk fyrir annan vinning og 1 mark fyrir þriðja vinning.

Verðlaun—medalíur og vörur verða veittar fyrir allar íþróttir.

Glíman byrjar að afstöðnum ræðuhöldum.

Eftirfylgjandi skrá skal fylgt, samkvæmt reglum Amateur Athletic Union of Canada. En þó hefir formaður íþróttanefndarinnar vald til að breyta henni, ef nauðsyn krefur. Fyrstu, önnur og þriðju verðlaun verða gefin fyrir eftirkomandi íþróttir:

15.—100-yard Dash (Open)
16.—Pole Vault
17.—440-yard Race
18.—Running High Jump
19.—880-yard Race (Open)
20.—Hop, Step and Jump
21.—220-yard Race
22.—Relay Race
23.—Shot Put
24.—Mile Race
25.—100-yard Dash
26.—Íslenzk glíma.

Dansinn byrjar kl. 10 síðdegis og verður í danssal lystigarðsins; dansað verður til kl. 3 f. h. Gömlu og nýju dansarnir verða dansaðir.

III. ÞÁTTUR

Kl. 1:40 e. h.

Fjallkona dagsins, frú Lillian Murdoch, leggur blómsveig á landnemaminnisvarðann.

Sungið: Ó Guð vors lands

# Skemtiskrá

*Í GIMLI PARK KL. 2 E. H.*

Fjallkonan leidd til hásætis; sungið: Ó Guð vors lands

1. Sungið: O Canada.
2. Fjallkonan flytur ávarp.
3. Karlakór, undir stjórn Ragnars H. Ragnar.
4. Forseti dagsins, Friðrik Sveinsson—ávarp.
5. Karlakór.
6. Ræður frá heiðursgestum.
7. Karlakór.
8. Minni Íslands—
   Kvæði: Dr. Sig. Júl. Jóhannesson
   Ræða: Agnar R. Magnússon, M.A.
9. Karlakór.
10. Minni Vesturheims—
11. Karlakór.
    Kvæði: Kristján Pálsson
    Ræða: Edvald B. Olson.
12. Eldgamla Ísafold—God Save The King

Að kveldinu hefst samsöngur (alþýðusöngvar) undir stjórn Ald. Paul Bardal

Hljómsveit og dans í Gimli Pavilion — Aðgangur 25c

Aðgöngumiðar að dansinum verða til sölu kl. 9 að kvöldinu og áfram.

# Ísland

"Þar roðnar aldrei sverð af banablóði,
þar byggir gyðjan mín sín himintjöld."
—Ben. Gröndal.

Vér fornaldar dygðirnar dáum
og drengskap, er aldrei vér sáum:
þar alt sýnist heilagt og háleitt,
af hrifningu fólkið er dáleitt.

Nú finst oss sem þjóðinni þrotinn
sé þróttur, og flugvængur brotinn,
og trústyrkur flúinn af Fróni
og farinn með Hallgrími' og Jóni.

Já, þeir kunnu' að blóta og bölva
og brothættar sálir að mölva,
og ógna með sífeldu suði
um syndir — og refsing frá guði.

Þó gott sé hins gamla að minnast,
er guðsorði hætt við að þynnast,
sem tuggið er aftur og aftur:—
Hann eyðist þess skapandi kraftur.

Vér þykjumst ei þekkja né sjá menn,
er þjóðina leiði sem spámenn:—
En hvar er *nú* haglegar stjórnað?
á helgara altari fórnað?

Það logar í ófriðar eldi
hvert einasta "menningar" veldi:—
Til vopna og víga í samtíð
þau veðsetja barnanna framtíð.

Hver óþjóðin flýgur á aðra
sem eitruð og hvæsandi naðra.
Um háloftið herdrekar fljúga
og helvízkum eldgusum spúa.

En Ísland sem öruggur klettur,
hinn aleini friðsæli blettur.
Þar heimssálin vakir á verði
og veit ekki' af byssu né sverði.

Þó margur þar hörmung sé háður,
er helvíti mildara' en áður,
og fordæmdu sauðirnir færri,
en frelsaði hópurinn stærri.

Ef þjóðin er vegin í þátíð
er þyngd hennar einstæð og fátíð;
en þó á hún sálríkri samtíð
og sér út í dýrðlegri framtíð.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

# Minni Vesturheims



Þeir leita til þín enn úr austurvegi,
sem æðra líf á jörðu vorri þrá.
Á himni þínum blikar brún af degi
er böðlum hervalds ógnar mest að sjá.
Og allir þeir, sem ánauð reyrði böndum,
og örbyrgð þjáir, fella hug til þín.
Því kom þér úrvalslið frá mörgum löndum
sem ljósi þínu felur börnin sín.

Þú býður öllum beztu lífsins gæði;
við borð þín full en enginn settur hjá.
Þú heimtar aldrei auð né veizluklæði;
en alúð, traust og sanna frelsisþrá.
Að margir guldu vanþökk velgjörð þinni
er vafalaust; en stærri er hópur sá,
sem helgar þér það alt í eigu sinni,
sem auðgar þig og hag þinn styðja má.

Við Íslandsniðjar fluttum fjársjóð vestur,
þann föðurarf, sem ganga skal í ætt.
Og svo mun haldast hagur allra beztur,
að hans sé vel og dyggilega gætt.
Á þennan andans auð, í sögu og kvæðum,
skal öllu meira en gullið rauða treyst.
Og munum vel, að á þeim fögru fræðum
var feðra vorra sanna menning reist.

Oft heimta þeir, sem betur vilja byggja,
að burtu sé því gamla öllu fleygt.
En ráð mun þó að láta ósnert liggja
það lagið, sem að reyndist traust og seigt.
Og eins mun bezt að stuðlar allir standi,
er storminn þoldu og klufu alda flóð.
Að eiga bjarg, en byggja hús á sandi,
slíkt bráðræði ei sæmir neinni þjóð.

Við látum enn um áratugi marga,
með einurð fullri hljóma norrænt mál.
Og reynum ávalt öllu því að bjarga,
sem eykur dug og göfgar þjóðarsál.
Þú Vesturheimur, griðland þreyttra gesta,
við göngum, frjálsir menn í lög þín inn.
Þitt afl er frelsi, vit og viljafesta,
sem virðir ætíð hæstan drengskapinn.

*K. S. Pálsson.*



# Alþýðu Söngvar.

1.

Hvað er svo glatt, sem góðra vina
fundur,
er gleðin skín á vonarhýrri brá?
Eins og á vori laufi skrýðist lundur,
lifnar og glæðist hugarkætin þá;
og meðan þrúgna gullnu tárin glóa
og guðaveigar lífga sálaryl,
þá er það víst, að beztu blómin gróa
í brjóstum, sem að geta fundið til.

2.

Ó, fögur er vor fósturjörð
um fríða sumardaga,
er laufin grænu litka börð
og leikur hjörð í haga,
en dalur lyftir blárri brún
mót blíðum sólarloga
og glitrar flötur, glóir tún
og gyllir sunna voga.

3.

Táp og fjör og frískir menn
finnast hér á landi enn,
þéttir á velli og þéttir í lund,
þrautgóðir á raunastund.
Djúp og blá blíðum hjá
blika drósum hvarmaljós;
norðurstranda stuðlaberg
stendur enn á gömlum merg.

4.

Fósturlandsins Freyja,
fagra Vanadís,
móðir kona, meyja,
meðtak lof og prís!
Blessað sé þitt blíða
bros og gullið tár;
þú ert lands og lýða
ljós í þúsund ár.

5.

Heyrið morgun söng á sænum,
sjáið bruna fley
undan hægum byrjar-blænum
burt frá strönd og ey;
sólin skreytir skipa raðir,
skín hver þanin voð;
söngljóð kveða sjómenn glaðir
snjalt á hverri gnoð.

6.

Stóð eg úti' í tunglsljósi, stóð eg út
við skóg
—stórir komu skarar, af álfum var
þar nóg;
blésu þeir á sönglúðra' og bar þá að
mér fljótt
og bjöllurnar gullu á heiðskýrri nótt.

7.

Frjálst er í fjallasal,
fagurt í skógardal.
Heilnæmt er heiðloftið tæra;
hátt yfir hamrakór
himininn blár og stór
lyftist með ljóshvolfið skæra.

8.

Ólafur reið með björgum fram,—
villir han stillir hann,—
hitti fyrir sér álfarann.
Þar rauður loginn brann;
blíðan lagði byrinn undan björgunum
fram.

9.

Þú, sæla heimsins svalalind,
ó, silfurskæra tár!
er allri svalar ýta-kind
og ótal læknar sár.

10.

Ó, Guð vors lands! ó, lands vors Guð,
vér lofum þitt heilaga, heilaga nafn.
Úr sólkerfum himnanna hnýta þér
kranz
þínir herskarar tímanna safn.
Fyrir þér er einn dagur sem þúsund ár,
og þúsund ár dagur, ei meir,
eitt eilífðar smáblóm með titrandi tár,
sem tilbiður Guð sinn og deyr.
Íslands þúsund ár, Íslands þúsund ár,
eitt eilífðar smáblóm með titrandi tár,
sem tilbiður Guð sinn og deyr.

11.

Eg man þá tíð í minni' hún æ mér er,
þá ársól lífsins brann mér heitt á
vanga,
og vorblóm ungu vakti' í brjósti mér,
sem velkja náði' ei hretið enn hið
stranga.

12.

Sjáið hvar sólin nú hnígur,
svífur að kvöld-húmið rótt;
brosir hún blítt, er hún sígur,
blundar, senn foldarheims drótt.
Heyrið þér klukkuna', hún klingir við
lágt,
kallar í húsin til aftansöngs brátt.
Klukka! ó, fær oss nú fró,
friðinn og heilaga ró.

13.

Vængjum vildi' eg berast í vindalétt-
um blæ,
djarft um fjöll og dali og djúpan
reginsæ.
Vængjum líða' í lofti, við ljósbjart
sólar-hvel,
vængjum sælum svífa, með sigri yfir
líf og hel.

14.

Þú bláfjallageimur með heiðjökla-
hring,
um hásumar flý eg þér að hjarta.
Ó, tak mig í faðm, minn söknuð burt
eg syng
:;:Um sumarkvöld við álftavatnið
bjarta:;:

15.

Svífur að haustið og svalviðri gnýr,
svanurinn þagnar og heiðlóan flýr,
blóm eru fölnuð í brekkunum öll;
bylgjurnar ýfast og rjúka sem mjöll.
Fleygir burt gullhörpu fossbúinn grár,
fellir nú skóg-gyðjan iðjagrænt hár.

16.

Nú er frost á Fróni,
frýs í æðum blóð,
kveður kuldaljóð
Kári í jötunmóð;
yfir laxalóni
liggur klakaþil,
hlær við hríðarbyl
hamragil.
Marar bára blá
brotnar þung og há
unnar-steinum á
ygld og grett á brá;
yfir afla-tjóni
æðrast skipstjórinn,
harmar hlutinn sinn,
Hásetinn.

17.

:;:Til Austurheims vil eg halda,
þar hjartkærust ástin mín býr:;:
:;:Bak við fjöll og djúpa dali
hún dvelur und laufgrænum meið:;:

18.

Svíf þú nú sæta söngsins engla-mál,
angrið að bæta yfir mína sál.
Tónaregn þitt táramjúkt,
titri niður á hjartað sjúkt.
Eins og dala daggir svala
þyrstri rós í þurk.

19.

Fölnuð er lilja og fölnuð er rós,
fölnað er himinsins blessaða ljós.
Hnýpinn er skógur og hnigið er bar
há'm sem að áður á björkunum var

20.

Af stað burt í fjarlægð við hornahljóð-
in ströng,
og hefjum upp raddir í drengilegum
söng.
:;:sem morgunblær um löndin frelsið
fer,
og frjálsa glaða lífið það kjósum vér:;:

21.

Geng eg fram á gnýpu og geigvæna
brún,
:;:djúpan lít eg dalinn og dáfögur
tún:;:

22.

Brosandi land,
fléttað með sólhýrum sundum,
saumað með blómstrandi lundum.
Draumhýra land.

23.

Eg berst á fáki fráum
fram um veg,
mót fjallahlíðum háum
hleypi eg,
og golan kyssir kinn;
og á harða, harða spretti
:;:hendist áfram klárinn minn:;:

24.

Ísland, farsældar Frón
og hagsældar hrímhvíta móðir,
hvar er þín fornaldarfrægð.
frelsið og manndáðin bezt?

25.

Lýsti sól stjörnustól,
stirndi' á Ránar-klæði,
skemti sér vor um ver.
vindur lék í næði;
heilög sjón hló við Frón,
himinn, jörð og flæði
fluttu landsins fögur heillakvæði.

26.

Mér um hug og hjarta nú
hljómar sætir líða.
Óma vorljóð, óma þú
út um grundir víða;
hljóma þar við hús þú sér
hýrleg blómin skína;
Fríðri rós, sem fyrir ber
Færðu kveðu mína.

27.

Nú blika við sólarlag sædjúpin köld;
ó, svona' ætti að vera hvert einasta
kvöld;
með hreinan og ljúfan og heilnæman blæ
og himininn bláan og speglandi sæ.

28.

Nú er sumar,
gleðjist gumar,
gaman er í dag;
brosir veröld víða,
veðurlagsins blíða
eykur yndishag.

29.

Sortanum birta bregður frí,
brýst í austri roði um ský,
fagur um haga dregur dagur
dynur hanafjöðrum í;
vakið ósmeikir vinir því,
vakið og takið stál og blý;
mál er óveilum hölum heilum
herða sverða rimmu' á ný.

**30.**

Björt mey og hrein
mér unni ein,
á ísa-köldu landi;
sárt ber eg mein
fyrir silkirein,
sviftur því trygðabandi.

**31.**

Látum af hárri heiðarbrún
ljóshraða svífa sjón
sviptígið yfir Frón.

**32.**

Bí-bí og blaka, álftirnir kvaka,
eg læt sem eg sofi en samt mun eg vaka.
Bíum-bíum bamba, börnin litlu ramba
fram um fjallakamba að leita sér lamba.

**33.**

Máninn hátt á himni skín
hrímfölur og grár;
líf og tími líður,
og liðið er nú ár.
Bregðum blysum á loft,
bleika lýsum grund,
glottir tungl og hrín við hrönn
og hratt flýr stund.

**34.**

Upp á himins bláum boga
bjartir stjörnuglampar loga,
yfir sjóinn undur breiða
unaðsgeislum máninn slær.
En hvað er fegurð himinsala,
hvað er rós og blómin dala,
móti djúpu meyjarauga,
mátt er allan sigrað fær?

**35.**

Hvert svífið þér svanir af ströndu,
með söngvum í bláheiðan geim?
Eg sé það á ölllu þér ætlið
í ósýnis fjarlægan heim.

**36.**

Á heimsenda köldum vor ey gnæfir ein
í yzta norðurs hafsauga bláu,
þar fóstraðist þjóð vor við elds og ísa
mein
og áhrif af náttúrunni háu;
og hér hefir glansað vor gulltíðar-öld,
og geymt hér hefir saga sín fornu rúna-
spjöld,
drykkjað þjóð með þrótt
á þrauta dimmri nótt;
ljúft oss land vort er,
því lífsrót vor er hér;
vor köllun, vor dáð
knýtt er fast við þetta land,
svo lengi vér lífsins anda drögum.





*ÖLLUM ÞEIM MÖRGU, körlum og konum, sem hafa á einn og annan hátt aðstoðað Íslendingadagsnefndina við þetta hátíðahald, tjáir nefndin sínar innilegustu þakkir. Hún óskar öllum samkomugestunum góðrar heimferðar og heillrar heimkomu.*

*ÍSLENDINGAR hér í álfu hafa nú í fjörutíu og sjö ár haldið þennan þjóðminningardag. — ÍSLENDINGADAGURINN er óháður öllum öðrum félagsstofnunum vorum — hans eina stóra og göfuga markmið, er að minnast ættjarðar vorrar og menningar og blóðtengsla vorra við heimaþjóðina.*

*ÍSLENDINGAR VILJUM VÉR ALLIR VERA, sameinaðir í helgum hugsunum, lotningu og þakklæti til vorrar ástkæru móður í austri og syskina vorra er þar búa.*

*MEGI SLÍKAR HUGSANIR VERA ÆTÍÐ GRUNDVÖLLURINN SEM VÉR BYGGJUM Á ÞJÓÐHÁTÍÐAR-FÖGNUÐ VORN UM ÓKOMIN ÁR.*

*Með beztu óskum um góða framtíð.*

—Nefndin.